[Grímur (F.)]

J. B. & F. S. & J. G.:

Einkenni á mjólkurkúm.

Ak. 1859.

# Leiðarvísir

til að þekkja

# Einkenni á mjólkurkúm,

(með 69 myndum).

---

Útgefendur:

**J. J. Borgfirðingur**
bókbindari.

**F. Steinsson**
bókbindari.

**J. Grímsson**
gullsmiður.



Akureyri 1859.

Prentað í prentsmiðju Norður- og Austurumdæmisins,
hjá H. Helgasyni.

# INNGANGUR.

Það er efalaust óþarfi að fara hjer að telja mönnum trú um það, hversu arðsamt það sje fyrir bændur, að hafa góðar mjólkurkýr í búi sínu, eða hve mikill munur sje á því að eiga góðar kýr og ljelegar; því hver, sem nokkuð hefur fengizt við búskap, eða ber hið minnsta skyn á þá hluti, er til búskapar heyra, hlýtur að vera sannfærður um þetta, þá er þess og ekki heldur þörf, að sannfæra neinn um það, hvað mikilsvert það er fyrir búendur, að geta eptir óbrigðulum einkennum sjeð undireins á hverri kú hve góð hún er til mjólkur, og jafnvel dæmt um nýbornar kvígur hvað góðar mjólkurkýr þær verða með tímanum, ef þær eru látnar lifa. Það getur ekki hjá því farið, að hver maður sjái hvað mikla og margfalda hagsmuni þessi þekking hlyti að veita í landbúnaðinum, væri hún almenn.

Menn hafa reyndar lengi haft ýms merki á mjólkurkúm, svo aðgætnir menn, sem lagt

hafa fyrir sig að þekkja þau, hafa opt getað farið nærri um það hvernig kýr hafa verið til mjólkur, þegar þeir hafa skoðað sköpulag þeirra. Þó hafa öll slík merki reynzt mjög óáreiðanleg og ónákvæm, unz frakkneskur maður nokkur fann ný einkenni á mjólkurkúm, sem langt bera af öðrum eldri einkennum, og heita mega óbrigðul.

Þessi frakkneski maður hjet F. Genon, og var sonur jarðyrkjumanns nokkurs. Framan af lagði hann sig eptir að nema sem bezt atvinnuveg föður síns, og til þess heyrir, meðal annars, að þekkja eiginlegleika jurta og aldina af ýmsum einkennum, er þau hafa á sjer hið ytra. Þegar Genon var 14 vetra gamall, var hann látinn gæta kýr einnar, sem faðir hans átti og var góð mjólkurkýr. Hafði hann sjer það stundum til dægrastyttingar að klóra henni, og tók þá nákvæmlega eptir háralagi hennar, því hann ímyndaði sjer að kýrnar hlyti að hafa einhver einkenni á sjer útvortis, er sýndu eiginlegleika þeirra, að sínu leyti eins og jurtirnar. Nú aðgætti hann, að aptan og innanvert á lærunum, utan við júgrið á kúnni, var partur, þar sem hárið lá upp á við, og þegar hann klóraði henni á þessum stað, þá

losnaði þar uppúr einskonar ofur smágjör væring; fór hann þá að skoða fleiri kýr og athuga hvort þessu væri eins varið á þeim; við þetta komst hann að raun um það, að mikill munur var á þeim í þessu lilliti, og að því stærri og mjúkhærðari þessi partur var aptan á þeim, þess betri mjólkurkýr voru þær jafnan.

Eptir þetta hugsaði Genon ekki um annað, en að taka sjer sem bezt fram í þessari þekkingu, en engan ljet hann vita hvað hann hefði athugað í þessu tilliti Leið nú ekki á löngu áður hann varð fær að dæma rjett um hverja kú, er hann sá, hvað mikið hún mjólkaði, hvað lengi hún stóð geld fyrir burðinn, og hvort góð mjólk var í henni eða ekki. Hann ferðaðist aptur og fram um hjeraðið, skoðaði kýrnar hjá búendum, og spurði þá hvort sú eða sú kýr mjólkaði ekki það, sem hann tiltók og s. frv., og brást það ekki, að eigandinn staðfesti þann dóm, sem Genon hafði kveðið upp; furðaði menn mjög á því hvað hann var nærgætinn, og margur trúði ekki öðru en að hann hefði fyrirfram verið búinn að komast eptir hvernig kýr hans mjólkuðu.

Genon sannfærðist fljótt um það, að engin nema hann einn hefði tekið eptir þessum

einkennum á kúnum, því þegar hann spurði reynda búmenn, nautakaupmenn og dýralækna um einkenni á mjólkurkúm, þá hafði hver þeirra sín einkenni, er hann helzt tók mark á, sumir fóru eptir lögun hornanna, aðrir eptir lögun júgursins, hinir þriðju eptir vaxtarlagi, hinir fjórðu eptir lit o. s. frv. En ætíð reyndist þeim mjög valt að fara eptir merkjum þessum, og Genon styrktist því æ betur í þeirri trú, að hann hefði fundið hin einu áreiðanlegu einkenni.

Árið 1822 byrjaði Genon kúaverzlun, og fjekk hann þá tækifæri til að skoða kýr úr ýmsum hjeruðum og frá ýmsum löndum; lagði hann nú hina mestu alúð á að koma skipulagi á fræði sína, og skipta kúnum í flokka og deildir eptir því sem einkennin á þeim voru ýmislega löguð. Árið 1828 bað hann vísindaskólann í Bordó (Bordeaux) að láta reyna sig í þessari list án þess að hann vildi láta uppskátt hver þau einkenni væru, sem hann færi eptir. Vísindaskólinn ljet að beiðni hans, og þótti hann vera furðu nærgætinn í því að meta kýrnar rjett, en ekki vildi skólinn ákveða hve óbrigðul aðferð Genons væri, með-

an hann leyndi einkennum þeim er hann metti kýrnar eptir.

Nú liðu enn 9 ár, unz landbúnaðarfjelagið í Bordó fór þess á leit við Genon, að hann ljeti uppskátt hverja aðferð hann hefði til að þekkja kýrnar svo nákvæmlega, og kaus fjelagið nefnd manna til að reyna hann í þessari list. Hann skýrði þá nefndinni frá einkennum þeim er hann hefði fundið á kúnum, og ljet hana reyna sig í því að dæma um fjölda margar kýr, sem safnað var saman, úr ýmsum áttum í þessum tilgangi. Sannfærðist þá nefndin um, að aðferð hans væri hin ágætasta, og ritaði fjelaginu álitsskjal með hinu mesti lofi um Genon. Þegar fjelagið hafði fengið nefndar álit þetta, veitti það Genon heiðurs pening úr gulli, kaus hann til fjelaga síns, skrifaði sig fyrir 500 exemplörum af bók þeirri er hann hafði í ráði að gefa út um þetta efni, og ályktaði að prenta skyldi nefndar álitið, og senda það hverju búnaðar fjelagi á Frakklandi. Ári síðar 1838 fjekk Genon viðlíka mikinn heiður hjá búnaðarfjelaginu í Aurillac, sem einnig reyndi hann í sömu list.

Þegar Genon hafði gefið út bók sína um einkenni á mjólkurkúm, fóru aðrar þjóðir einn-

ig að leggja sig eptir þessari þekkingu, og þýða rit hans á sitt mál. Árið 1846 kom út í Kaupmannahöfn dönsk þýðing af bók hans með nokkrum breytingum eptir Gustav Michelsen og er hennar getið í 4. ári Gests Vestfirðings, þar er og áætlun, um það hve mikinn ágóða Ísland gæti haft af því, ef menn notuðu þekkinguna á einkennum Genons til að bæta kúakynið um allt land[1]. Síðan hefur danskur maður, Andersen að nafni, ritað bók um þetta efni, sem prentuð er í Nestved 1849, og hafði hann áður um nokkur ár, með hinni mestu alúð, lagt sig eptir að þekkja og nota einkenni Genons; eptir þeirri bók er rit þetta samið, sem nú birtist fyrst um þetta efni á íslenzka tungu.

Þekking á mjólkurkúm, eptir einkennum Genons, hefur hingað til lítið eða ekkert verið stunduð á Íslandi, og þó einstaka maður

---

[1]) Árið 1850, munu hafa verið á Íslandi nær hæfis 16,000 fullorðnar kýr, og ætti þá eptir þessu að vaxa mjólkin úr þeim öllum til samans um 15,040,000 potta, og þó potturinn sje ekki reiknaður nema 2 ß virði, yrði 313,333 rd. 2 ℞. En árið 1855 munu kýr hafa verið hjerum 19,000, og ef þær mjólkuðu eins og hinar, yrði það 17,800,000 pottar, en potturinn reiknaður 4 ß eins og nú selst almennt, yrði það 744, 166 rd. 4 ℞ ábati sem menn hefði hjer við, að hafa ekki nema góðar mjólkurkýr í búi sínu.

kunni að hafa fengið danska bók um þetta efni, og ef til vill lagt fyrir sig að þekkja kýr eptir því, þá hefir þó enginn orðið til að rita neitt um það, nema ef telja skal greinina í Gesti Vestfirðing, sem áður var nefnd, og fræðir hún þó þann sem les hana, ekkert um efnið sjálft. Nú er það ætíð nokkrum örðugleikum bundið, að rita um það efni, sem engin hefur áður ritað um á sama máli, því þá þarf jafnan að smíða ný orð, og hefur þess einnig þurft í riti þessu, en mönnum eru þau ætíð ótöm í fyrstu, og kunna því ef til vill, ekki vel við þau fyrst í stað. Annars var það tilgangurinn, að kver þetta gæti orðið sem sem stittst og ódýrast en þó um leið að sem mestum notum. Væri það æskilegt, að sem flestir af búendum ættjarðar vorrar hugleiddu þetta efni, eigi síður enn annað, sem styrkt getur til að efla velmeigun þeirra og búsæld.

# Um einkenni á kúm.

Athugi menn hárið á mölunum og að utanverðu á lærunum á kúnum, þá sjest að það liggur allt ofan á við, eins og á öðrum snögghærðum dýrum, en sje háralagið betur aðgætt frá halanum ofan á júgrið, munu menn sjá stærri eða minni part, sem ber móti byrtunni, nokkuð annan blæ en húðin í kríng. Þetta kemur til af því að hárið hefir þar gagnstæða stefnu, eða liggur upp á við, vjer köllum þennan part aptan á kúnni s p e l d i, og á því eru einkenni þau, er Genon fann, og sem hjer skal nú lýsa.

Það er áreiðanlegt að kýr, sem lítið mjólka hafa ætíð lítið speldi, en á góðum kúm er aptur stærri partur með hári, sem liggur upp á við innan á lærunum utan við júgrið, aptan á því sjálfu, og stundum upp undir hala, eða með öðrum orðum: þær hafa allar stórt speldi. Því stærra speldið er, og einkanlega því neðar sem það byrjar nær konungsnefinu og því hærra og breiðara það gengur upp eptir

lærunnm og út á þau, þess betur mjólkar kýrin. Þetta er helzta atriðið í þekkingu Genons, eða aðalefnið í henni. Nú eru speldin og einkum að ofanverðu, mjög ýmislega löguð, þess vegna yrði það örðugt, eða nærri ótækt, að líkja nákvæmlega saman stærð þessara svo ólíku mynda; Genon hefir því skipt þeim í '8 flokka, eptir 8 aðal myndum, sem á þeim eru.

Flokkum þessum gaf Genon nöfn eptir ýmsum hjeruðum á Frakklandi, þar sem hann fann flestar kýr af hverjum flokki; en með því þessi nöfn þykja ekki eiga sem bezt við í öðrum málum, þá hafa þeir sem þýtt hafa bók Genons, gefið flokkunum önnur nöfn eptýmsum algengum hlutum, sem speldin þykja líkjast mest að lögun. Vjer viljum nú einnig fylgja þessari reglu og nefna flokkana þannig:

1. flokkur, kýr með hörpuspeldi.
2. — — — fetilspeldi.
3. — — — strítuspeldi.
4, — — — kvíslarspeldi
5. — — — kólfspeldi.
6. — — — krókspeldi.
7. — — — fleigspeldi.
8. — — — skjaldspeldi.

Við flokkaskipun þessa er einungis litið á lögun speldisins; en eptir hana kemur önnur skipting, og er þá litið til stærðar speldisins; má álíta þá skiptingu meir áríðandi, því eptir henni fer mest um gæði kúa. Í þessu tilliti skipti Genon hverjum flokk í 8 deildir, og til þess að gjöra allt þetta sem skyljanlegast, hefur hann gefið út sína mynd af hverri þessara 64 deilda, er sýna bæði lögun speldisins og stærð þess í samanburði við aptur hluta kýrinnar. Einnig hefur hann til greint hvað mikið kýr með hverju speldi geti mjólkað, þegar hún hefir nóg fóður, og hvað marga mánuði hún standi gjeld fyrir burðinn. En með því mjólkin fer að nokkru leyti eptir stærð kýrinnar, þá hefir Genon að síðustu, talið kýrnar í þrennulagi eptir vexti þeirra,

Á myndum þeim, er hjer fylgja, sem nákvæmlega eru gjörðar eptir myndum Genons sjálfs, hvað lögun og stærð speldisins viðvíkur, sýnir hið svarta þá staði aptan á kúnni, sem hárið liggur ofan eptir, en hið hvíta þann part, sem hárið liggur upp eptir, eða speldið. Í sumum bókum um þetta efni er júgrið og lærin dregin upp sitt í hverju lagi,

en þær myndir geta ekki orðið eins greinilegar, og eiga ekki við nema þann tímann, sem kýrin mjólkar mest. Hjer er því á myndunum að eins afmarkað kríngmál, eða randir speldisins, og mun eigi verða torveldara fyrir það að bera speldið á kúnum saman við myndirnar; en menn verða að ímynda sjer, að lærin sjeu færð nokkuð út á við, hvort frá öðru, eða apturhluti kýrinnar líkari sljettum fleti, og fari ekki eptir stærð júgursins þann tímann, sem kýrin mjólkar lítið, eða stendur geld, heldur gæta einkum að því hvað speldið gengur langt út á lærin.

Þess ber enn að geta, að Genon segir, að kýr, sem mjög vel er gjört við, geti mjólkað miklu meir enn hann ákveður, það er líka sjálfsagt, að geldstöðutími kúa fer að nokkru leiti eptir fóðri þeirra.

## 1. Flokkur

1. Deild.



2. Deild.



3. Deild.



4. Deild.



## Kýr með hörpuspeldi.

| Eptir því sem Genon ákvað eiga | | Mjólka í mál. | Standa geldar fyrir burðinn. |
|---|---|---|---|
| | | Merkur | Mánuði. |
| Af 1. Deild | stór kýr | 20 | 1 |
| | meðal — | 16 | 1 |
| | lítil — | 12 | 1 |
| Af 2. Deild | stór kýr | 18 | 1 |
| | meðal — | 14 | 2 |
| | lítil — | 10 | 2 |
| Af 3. Deild | stór kýr | 16 | 2 |
| | meðal — | 12 | 3 |
| | lítil — | 8 | 3 |
| Af 4. Deild | stór kýr | 14 | 3 |
| | meðal — | 10 | 4 |
| | lítil — | 6 | 4 |

## 1. Flokkur.

5. Deild.



6. Deild.



7. Deild.



8. Deild.



## Kýr með hörpuspeldi.

| Eptir því sem Genon ákvað eiga | | Mjólka í mál. | Standa geldar fyrir burðinn. |
|---|---|---|---|
| | | Merkur | Mánuði |
| Af 5. Deild | stór kýr | 12 | 4 |
| | meðal — | 8 | 5 |
| | lítil — | 4 | 5 |
| Af 6. Deild | stór kýr | 9 | 5 |
| | meðal — | 5 | 6 |
| | lítil — | 3 | 7 |
| Af 7. Deild | stór kýr | 6 | 6 |
| | meðal — | 3 | 7 |
| | lítil — | 2 | 8 |
| Af 8. Deild | stór kýr | 4 | 7 |
| | meðal — | 2 | 9 |
| | lítil — | 1 | 9 |

## 2. Flokkur.

1. Deild.



2. Deild.



3. Deild.



4. Deild.



## Kýr með fetilspeldi.

| Eptir því sem Genon ákvað eiga | | Mjólka í mál. | Standa geldar fyrir burðinn |
|---|---|---|---|
| | | Merkur | Mánuði |
| Af 1. Deild | stór kýr | 18 | 1 |
| | meðal — | 14 | 1 |
| | lítil — | 10 | 1 |
| Af 2. Deild | stór kýr | 16 | 1½ |
| | meðal — | 13 | 2½ |
| | lítil — | 8 | 2½ |
| Af 3. Deild | stór kýr | 14 | 3 |
| | meðal — | 11 | 4 |
| | lítil — | 6 | 4 |
| Af 4. Deild | stór kýr | 12 | 4½ |
| | meðal — | 10 | 5 |
| | lítil — | 4 | 5 |

## 2. Flokkur.

5. Deild.



6. Deild.



7. Deild.



8. Deild.



## Kýr með fetilspeldi.

| Eptir því sem Genon ákvað eiga | | Mjólka í mál. | Standa geldar fyrir burðinn. |
|---|---|---|---|
| | | Merkur | Mánuði |
| Af 5. Deild | stór kýr | 10 | 6 |
| | meðal — | 8 | 6 |
| | lítil — | 3 | 6 |
| Af 6. Deild | stór kýr | 8 | 7 |
| | meðal — | 6 | 7 |
| | lítil — | 2 | 7 |
| Af 7. Deild | stór kýr | 6 | 7 |
| | meðal — | 4 | 9 |
| | lítil — | 2 | 9 |
| Af 8. Deild | stór kýr | 4 | 9 |
| | meðal — | 3 | 9 |
| | lítil — | 1 | 9 |

## 3. Flokkur.

1. Deild.



2. Deild.



3. Deild.



4. Deild.



## Kýr með strítuspeldi.

| Eptir því sem Genon ákvað eiga | | Mjólka í mál. | Standa geldar fyrir burðinu. |
|---|---|---|---|
| | | Merkur | Mánuði |
| Af 1. Deild | stór kýr | 18 | 1 |
| | meðal — | 15 | 1 |
| | lítil — | 12 | 1 |
| Af 2. Deild | stór kýr | 16 | 2 |
| | meðal — | 13 | 2 |
| | lítil — | 10 | 2 |
| Af 3. Deild | stór kýr | 14 | 3 |
| | meðal — | 11 | 3 |
| | lítil — | 8 | 3 |
| Af 4. Deild | stór kýr | 12 | 4 |
| | meðal — | 9 | 4 |
| | lítil — | 6 | 5 |

## 3. Flokkur.

5. Deild.



6. Deild.



7. Deild.



8. Deild.



## Kýr með strítuspeldi.

| Eptir því sem Genon ákvað eiga | | Mjólka í mál. | Standa geldar fyrir burðinn. |
|---|---|---|---|
| | | Merkur | Mánuði |
| Af 5. Deild | stór kýr | 10 | 5 |
| | meðal — | 7 | 5 |
| | lítil — | 5 | 6 |
| Af 6. Deild | stór kýr | 7 | 6 |
| | meðal — | 5 | 6 |
| | lítil — | 4 | 7 |
| Af 7. Deild | stór kýr | 5 | 7 |
| | meðal — | 3 | 9 |
| | lítil — | 2 | 9 |
| Af 8. Deild | stór kýr | 3 | 9 |
| | meðal — | 2 | 9 |
| | lítil — | 2 | 9 |

## 4. Flokkur.

1. Deild.



2. Deild.



3. Deild.



4. Deild.



## Kýr með kvíslarspeldi.

| Eptir því sem Genon ákvað eiga | | Mjólka í mál. | Standa geldar fyrir burðinn. |
|---|---|---|---|
| | | Merkur | Mánuði |
| Af 1. Deild | stór kýr | 16 | 1 |
| | meðal — | 14 | 1 |
| | lítil — | 11 | 1 |
| Af 2. Deild | stór kýr | 14 | 2 |
| | meðal — | 12 | 2 |
| | lítil — | 9 | 2 |
| Af 3. Deild | stór kýr | 12 | 3 |
| | meðal — | 10 | 3 |
| | lítil — | 7 | 3 |
| Af 4. Deild | stór kýr | 10 | 4 |
| | meðal — | 8 | 4 |
| | lítil — | 5 | 4 |

## 4. Flokkur

5. Deild.



6. Deild.



7. Deild.



8. Deild.



## Kýr með kvíslarspeldi.

| Eptir því sem Genon ákvað eiga | | Mjólka í mál. | Standa geldar fyrir burðinn. |
|---|---|---|---|
| | | Merkur | Mánuði |
| Af 5. Deild | stór kýr | 8 | 5 |
| | meðal — | 6 | 5 |
| | lítil — | 4 | 5 |
| Af 6. Deild | stór kýr | 6 | 6 |
| | meðal — | 4 | 6 |
| | lítil — | 3 | 6½ |
| Af 7. Deild | stór kýr | 4 | 7 |
| | meðal — | 3 | 9 |
| | lítil — | 2 | 9 |
| Af 8. Deild | stór kýr | 3 | 9 |
| | meðal — | 2 | 9 |
| | lítil — | 1 | 9 |

## 5. Flokkur

1. Deild.



2. Deild.



3. Deild.



4. Deild.



## Kýr með kólfspeldi.

| Eptir því sem Genon ákvað eiga | | Mjólka í mál. | Standa geldar fyrir burðinn. |
|---|---|---|---|
| | | Merkur | Mánuði |
| Af 1. Deild | stór kýr | 16 | 1 |
| | meðal — | 14 | 1 |
| | lítil — | 10 | 1 |
| Af 2. Deild | stór kýr | 14 | 2 |
| | meðal — | 12 | 2 |
| | lítil — | 8 | 2 |
| Af 3. Deild | stór kýr | 12 | 3 |
| | meðal — | 10 | 3 |
| | lítil — | 6 | 3 |
| Af 4. Deild | stór kýr | 10 | 4 |
| | meðal — | 8 | 4 |
| | lítil — | 5 | 4 |

## 5. Flokkur.

5. Deild.



6. Deild.



7. Deild.



8. Deild.



# Kýr með kólfspeldi.

| Eptir því sem Genon ákvað eiga | | Mjólka í mál. | Standa geldar fyrir burðinn. |
|---|---|---|---|
| | | Merkur | Mánuði |
| Af 5. Deild | stór kýr | 8 | 5 |
| | meðal — | 6 | 5 |
| | lítil — | 4 | 5 |
| Af 6. Deild | stór kýr | 6 | 6 |
| | meðal — | 5 | 6 |
| | lítil — | 3 | 6 |
| Af 7. Deild | stór kýr | 4 | 7 |
| | meðal — | 3 | 7 |
| | lítil — | 2 | 7 |
| Af 8. Deild | stór kýr | 2 | 9 |
| | meðal — | 1 | 9 |
| | lítil — | 1 | 9 |

## 6. Flokkur.

1. Deild.



2. Deild.



3. Deild.



4. Deild.



## Kýr með krókspeldi.

| Eptir því sem Guenon ákvað eiga | | Mjólka í mál. | Standa geldar fyrir burðinn. |
|---|---|---|---|
| | | Merkur | Mánuði |
| Af 1. Deild | stór kýr | 16 | 1 |
| | meðal — | 13 | 1 |
| | lítil — | 9 | 1 |
| Af 2. Deild | stór kýr | 14 | 2 |
| | meðal — | 10 | 2 |
| | lítil — | 8 | 2 |
| Af 3. Deild | stór kýr | 12 | 3 |
| | meðal — | 8 | 3 |
| | lítil — | 6 | 3 |
| Af 4. Deild | stór kýr | 10 | 4 |
| | meðal — | 6 | 4 |
| | lítil — | 4 | 4 |

## Kýr með krókspeldi.

| Eptir því sem Genon ákvað eiga | | Mjólka í mál. | Standa geldar fyrir burðinn. |
|---|---|---|---|
| | | Merkur | Mánuði |
| Af 5. Deild | stór kýr | 8 | 5 |
| | meðal — | 4½ | 5 |
| | lítil — | 3½ | 5 |
| Af 6. Deild | stór kýr | 6 | 6 |
| | meðal — | 3½ | 6 |
| | lítil — | 2½ | 6 |
| Af 7. Deild | stór kýr | 4 | 7 |
| | meðal — | 2 | 7 |
| | lítil — | 1 | 7½ |
| Af 8. Deild | stór kýr | 2 | 9 |
| | meðal — | 1½ | 9 |
| | lítil — | 1 | 9 |

## Kýr með fleigspeldi.

| Eptir því sem Genon ákvað eiga | | Mjólka í mál. | Standa geldar fyrir burðinn. |
|---|---|---|---|
| | | Merkur | Mánuði |
| Af 1. Deild | stór kýr | 14 | 1 |
| | meðal — | 11 | 1 |
| | lítil — | 8 | 1 |
| Af 2. Deild | stór kýr | 12 | 2 |
| | meðal — | 9 | 2 |
| | lítil — | 7 | 2 |
| Af 3. Deild | stór kýr | 10 | 3 |
| | meðal — | $7\frac{1}{2}$ | 3 |
| | lítil — | 6 | 3 |
| Af 4. Deild | stór kýr | 8 | 4 |
| | meðal — | $5\frac{1}{2}$ | 4 |
| | lítil — | 5 | 4 |

## Kýr með fleigspeldi.

| Eptir því sem Genou ákvað eiga | | Mjólka í mál. | Standa geldar fyrir burðinn. |
|---|---|---|---|
| | | Merkur | Mánuði |
| Af 5. Deild | stór kýr | $6\frac{1}{2}$ | 5 |
| | meðal — | 4 | 5 |
| | lítil — | 4 | 5 |
| Af 6. Deild | stór kýr | 5 | 6 |
| | meðal — | 3 | 6 |
| | lítil — | 3 | 6 |
| Af 7. Deild | stór kýr | 4 | 7 |
| | meðal — | 2 | 8 |
| | lítil — | 2 | 8 |
| Af 8. Deild | stór kýr | 2 | 9 |
| | meðal — | 2 | 9 |
| | lítil — | 1 | 9 |

## 8. Flokkur.

1. Deild.



2. Deild.



3. Deild.



4. Deild.



## Kýr með skjaldarspeldi.

| Eptir því sem Genon ákvað eiga | | Mjólka í mál. | Standa geldar fyrir burðinn. |
|---|---|---|---|
| | | Merkur | Mánuði |
| Af 1. Deild | stór kýr | 12 | 1 |
| | meðal — | 9 | 1 |
| | lítil — | 6 | 1 |
| Af 2. Deild | stór kýr | 10 | 2 |
| | meðal — | 8 | 2 |
| | lítil — | 5 | 2 |
| Af 3. Deild | stór kýr | 8 | 3 |
| | meðal — | 7 | $3\frac{1}{2}$ |
| | lítil — | 4 | 4 |
| Af 4. Deild | stór kýr | 6 | $4\frac{1}{2}$ |
| | meðal — | 6 | 5 |
| | lítil — | 3 | 5 |

## 8. Flokkur.

5. Deild.



6. Deild.



7. Deild.



8. Deild.



## Kýr með skjaldarspeldi.

| Eptir því sem Genon ákvað eiga | | Mjólka í mál. | Standa geldar fyrir burðinn. |
|---|---|---|---|
| | | Merkur | Mánuði |
| Af 5. Deild | stór kýr | 5 | 5½ |
| | meðal — | 5 | 6 |
| | lítil — | 2 | 6 |
| Af 6. Deild | stór kýr | 4 | 7 |
| | meðal — | 4 | 7 |
| | lítil — | 1 | 7 |
| Af 7. Deild | stór kýr | 3 | 8 |
| | meðal — | 3 | 8 |
| | lítil — | 1 | 9 |
| Af 8. Deild | stór kýr | 2 | 9 |
| | meðal — | 2 | 9 |
| | lítil — | 1 | 9 |

Verið getur að mörgum virðist við fyrsta álit, myndir þessar vera undarlega nákvæmar, og þyki jafnvel ótrúanlegt að þær sjeu á kúnni, en reynslan hefur sýnt hverjum þeim, sem alvarlega hefur lagt sig niður við að athuga þetta, að einungis mjög fá afbrigði frá myndum þessum eigi sjer stað, og honum mun sjaldan veita örðugt, að segja í hverjum flokki sjerhver kýr eigi heima, jafnvel þó speldið hafi ekki öldungis rjetta lögun; og enn þá síður geta menn villzt á því, af hvaða deild kýrin sje, þegar þess er gætt, að allt er í því tilliti undir stærð speldisins komið, og að af tveim jafn stórum speldum er það betra, sem meira gengur út á lærin; að minnsta kosti er þá ekki myndunum um að kenna. Hvað hinum fáu afbrigðum frá myndunum við víkur, er þá það merkilegt, að þau aldrei hafa nokkra vissa reglulega mynd, svo talandi væri að hafa fleiri flokka, en þá 8 er Genon hefur talið, og þar sem Genon lætur speldið ætíð vera meira vinstrameginn, ef það á annað borð ekki er jafnt til beggja hliða, t. a. m. á 6. flokki, þá segist Andersen að eins hafa fundið e i n a kú af 3000, sem lítið eitt veik frá þessari reglu. Það er því fullkomlega undra vert hvað náttúran fylgir föstum og óbifanleg-

um reglum í þessari grein, eins og líka hitt, að einum manni skyldi verða auðið, án nokkurs leiðarvísis, að niðurskipa svo fullkomlega jafn margbrotnu efni.

Þegar menn vilja færa sjer einkenni Genons í nyt, þá verða menn að gjöra sjer að reglu, að athuga fyrst hvert hárið liggur upp á við, eða niður á við, aptan vert og innan vert á lærunum útfrá júgrinu og eins á því sjálfu; en með því speldið er á þessum stað hjer um bil eins lagað á öllum flokkunum, geta menn undir eins fengið nokkurnveginn skýra hugmynd um gæði kýrinnar. Þetta getur sá sem vanur er orðinn sjeð langt tilsýndar, og þess vegna fljótt þekkt frá allar beztu kýrnar úr stórum kúa flokk. — Þessu næst athuga menn hvað langt speldið nær uppeptir, og hvernig efri hluti þess er lagaður, telja menn þá kúna til þess flokks sem speldið líkist mest; en opt getur verið örðugt að greina sundur kýr af hinum lægstu deildum, eða þær sem hafa minnst speldi, því mismunurinn er þar svo lítill og óljós, enda er sú aðgreining ekki mjög áríðandi í raun og veru. Hafi menn nú fundið af hvaða flokki kýrin er, þá reyna menn að finna þá mynd í þeim flokki,

sem líkust er speldinu að stærð, og eptir því sem verða má einnig að lögun, segir hún þá til af hvaða deild kýrin sje, nema á júgrinu, eða öðrum pörtum speldisins; sjeu dílar af hári, er liggur niðureptir, eða þá vik inní speldið, því þá verður að draga stærð þeirra frá stærð speldisins, og álíta kúna þeim mun lakari. Eins verður að hafa tillit jafnaðarins milli efri og neðri hluta speldisins, með því neðri hluti þess er töluvert betri; af því flýtur það, að áður nefndir dílar á speldinu, eða skerðingar utan í það, hafa misjöfn áhrif eptir því hvað ofarlega þeir eru. Orsökin til þess að kýrin hlýtur að vera lakari þegar skörð eru í speldið, eða dílar á því, er auðsjen þegar aðal reglunnar er gætt, að nyt kýrinnar fer eptir stærð, eða flatarmáli speldisins, og þarf þetta því engrar frekari útskýringar. Hitt er torskildara að gæða munur geti verið á efri og neðri hluta speldisins, og dílarnir því haft misjöfn áhrif, eptir því sem þeir eru ofarlega eða neðarlega, hjer skal því bæta við lítilli athugagrein um þetta: Eins og áður er getið, er neðri hluti speldisins hjer um bil eins lagaður á öllum flokkunum átta, og gæða munur þeirra fer því einungis eptir stærðar mun þeim, sem

er á efri hluta speldisins. Nú stendur einnig svo á, að kýrnar af fyrstu deildum allra flokkanna standa jafn lengi geldar fyrir burðinn, og sama má að mestu leyti segja um allar hinar deildirnar; þannig t. a. m., mjólka 2 kýr, sem önnur er af 1. deild 1. flokks, en hin af 1. deild 8. flokks, misjafnt í mál, en standa jafn lengi geldar. Á hinn bóginn eru speldin jafn stór að flatarmáli á kú af 5. deild 1. flokks, og annari af 1. deild 8. flokks, enda mjólka báðar jafn mikið í mál, en sá er munurinn, að hin fyrri stendur þrem mánuðum lengur geld fyrir burðinn, og er hin síðari því töluvert betri, kemur mismunur þessi af því, að í 8. flokki er speldið eingöngu á júgrinu og lærunum, utan við júgrið; en það er sannreynt að allar kýr, sem hafa speldið mest á þessum stað, standa skemur geldar heldur enn þær, sem hafa það mjótt, að neðan, enn upp hátt, þó stærðin sje jöfn þegar á allt er litið. Við hina fyrri reglu, „því stærra speldið er, því meira mjólkar kýrin,“ má af fyrtöldum orsökum bæta annari reglu þannig: Því meir sem speldið nær út á lærin frá júgrinu, og einkum því hærra sem það gengur upp eptir þeim, þess skemur

stendur kýrin geld fyrir burðinn, eða þess meira mjólkar hún um árið framyfir aðra með jafn stóru, en öðruvísi löguðn speldi. Af þessu hlýtur það að verða auðskilið, að áður nefndir dílar hafa meiri áhrif þegar þeir eru neðarlega á speldinu, eða lærunum, heldur enn þegar þeir eru ofarlega. Það leiðir og af því, að menn verða einkum að gæta nákvæmlega að neðri hluta speldisins, þegar því er líkt saman við myndirnar hjer í bókinni. Þegar menn nú hafa þannig dæmt um einhverja kú eptir myndunum, að svo miklu leyti verða má, athugi menn hvert ekki eru utan-vert eða ofanvert við speldið aflangir blettir með stríðu hári, sem hvorki liggur upp nje niður, heldur til hliðar og hvað mót öðru, svo þar myndast hárkambar; sömuleiðis aðgæta menn hvað húðin eða hárið er mjúkt á speldinu, einkum á lærunum og júgrinu. Hvorttveggja þetta hefur nokkur áhrif á gæði kýrinnar. Hvað hárkömbunum viðvíkur, þá gjöra þeir kúna nokkru lakari en hún væri án þeirra: því þær kýr, sem hafa slíka kamba, standa annaðhvort miklu lengur geldar, eða mjólkin í þeim er að öðrumkosti mjög þunn og kostlítil. Hin smáu þverstrik á myndum þeim, sem hjer standa

sýna hvar og hvernig lagaðir hárkambar þessir venjulegast eru.



Mýktin á speldinu gjörir meira að verkum, en menn í fyrstu geta ímyndað sjer, því allar beztu mjólkurkýr hafa speldi svo mjúkt sem silkiflos (Flöiel) að þreifa á, og hárin á því eru svo smágjör að þau varla sjást. Á ljelegum kúm aptur á móti er speldið með stinnu hári og þykkri húð, og með því glöggvast er að sjá þau speldi, sem þannig eru, þá er mörgum í fyrstunni hætt við að gæta einungis að þeim, en ekki hinum, sem lakara er að sjá, vegna þess að húðin og hárin eru svo mjúk og smágjör; hjer af flýtur þá, að menn

geta leiðst til að dæma um kýrnar gagnstætt því sem rjett er.

Genon segir að ætíð sje góð smjörmjólk í þeirri kú, af hvaða flokki og deild sem er, þegar hún hefur mjúkt speldi, einkum þegar á það slær gulri slikju og gulværing eða smáhreistur sezt þar á húðina, en ekki getur hann þess, að kýrnar mjólki meira fyrir það. Aptur þykist Andersen hafa sannreynt að þær einnig mjólki töluvert meira, svo að kýr af 4. deild með mjúku speldi, mjólki opt lítið minna en önnur af 2 deild af sama flokki, sem hafi snarpt speldi. Mjög algengt er, að kýr hafi aptan á júgrinu tvo díla með hári, sem liggur niður á við. Dílar þessir eru venjulega 2 þumlungar á lengd og $\frac{1}{2}$ þuml. á breidd, og má álíta kúna, sem hefur þá dálítið lakari, en ef þeir hefðu ekki verið, af því þeir gjöra speldið nokkru minna. Einatt eru líka dílar af uppsnúnu hári ofanvert við speldið í samastað, sem fyrnefndir hárkambar eru vanir að vera, og gjöra þeir aptur að sínu leiti sitt til að auka speldið, því þá er að álíta sem viðauka við það. Dílar þessir eru sýndir í myndinni sem hjer stendur hjá.



Stundum vill það til, að





hárkambar myndast utanvert við díla þá, er nú voru nefndir og eru þeir þá verri vottur, er þetta sýnt á næstu mynd. Opt er það að dílar þessir og hárkambarnir eru meiri vinstra megin, og stundum vantar þá öldungis hægra meginn.

Hjer að framan höfum vjer lýst speldunum með einkennum Genons, og skýrt þetta betur með myndunum; nú skal í fám orðum geta þess hvaða áhrif sköpulag, holdafar og meðgöngu tími kýrinnar hefur á einkenni þessi, og hvernig þau koma sýnilega fyrir sjónir á ýmsum tímum ársins.

Það mun optast veita hægt að sjá, af hvaða flokki og deild sjerhver kýr er, þegar menn halda á myndunum við hliðina á henni og líkja þeim sem nákvæmast saman við einkennin á kúnni; þó getur staðið svo á að

þetta sje ekki alls kostar auðveldt þar, þegar kýr eru nýlega gengnar úr hárunum, er opt mjög örðugt að sjá speldið, einkum ef það er í verunni mjúkhært. Þá er líka opt bágt að sjá hárkambana sem áður eru nefndir, og gjöra þeir svo mikið til að rýra kúna, mega menn þess vegna vera varasamir ef þeir vilja dæma um kýr á þessu tíma bili.

Því næst er það athugavert að skömmu fyrir og eptir burðinn er júgrið miklu stærra enn venjulega, og verður speldið við það töluvert stærra, en það á að sjer, svo menn kunni auðveldlega að ætla kúna betri en hún er í raun og veru, ef menn skoðuðu hana einungis á því tíma bili; skyldu menn því ekki marka stærð speldisins minna enn hálfan mánuð fyrir eða eptir burðinn. Á kvígum, sem ekki hafa fengið kálf, og eins á geldum kúm, sýnist aptur á mót speldið minna, en það reyndar er, vegna þess þær hafa ekkert, eða mjög lítið júgur.

Holdafar, eða útlit kýrinnar getur líka haft töluvert áhrif á speldið, einkanlega hvað mýkt þess viðvíkur, og er þó aðgætandi, að betra er að dæma um þetta þegar kýrin er fremur mögur en feit; því á þeirri kú, sem í verunni hefur mjúkt speldi, breytist það lítið, hvort sem hún er mögur eða feit nema það sem hárið verður, ef til vill, lítið eitt lengra sje hún mögur, án þess það missi mýktina fyrir það. Á þeim kúm, sem hafa snarpt speldi, getur það aptur á móti breytzt mikið, og orð-

ið sæmilega mjúkt þegar kýrin er í góðum holdum, svo það þekkist trauðlega frá sannarlegu mjúku speldi. Hin gulleita væring í speldinu hverfur venjulega á mögrum kúm, en er jafnmikil á öllum tímum ársins ef kýrin er allt af í góðum holdum. — Hver sá, sem ekki er orðinn alvanur við að meta kýr eptir einkennum Genons, skyldi því vera fyrst í stað mjög varasamur í þessu tilliti, þareð gæta verður alls, þess sem hjer er talið.

Tölurnar, sem settar eru við myndirnar hjer að framan, sýna mismunin á því, sem kýrnar af hinum ýmsu deildum flokkanna mjólka í mál; en það væri mjög rangt, að líta eingöngu á þetta, því þess ber einnig að gæta hvað langur tími af árinu þær mjólka. Það var þannig áður tekið til dæmis að kýr úr 1. deild 8. flokks mjólkaði jafnmikið í mál, eins og önnur af 5. deild 1. flokks. Nú stendur hin síðar talda 4 mánuði geld fyrir burðinn, en hin fyrnefnda að eins 1 mánuð, og er því miklu betri; eða með öðrum orðum, hún mjólkar miklu meir um árið. Tafla sú, sem hjer stendur, sýnir hvaða kýr eru jafnar að gæðum, þegar litið er á það, sem þær mjólka um árið.

Kýrnar eru því lakari sem þær standa neðar í töflunni, þær sem standa í sömu línu mjólka jafnmikið um árið.

| Línur. | Flokkar. | | | | | | | | Deildir. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | 1. | 2. | 3. | 4. | 5. | 6. | 7. | 8. | |
| 1. | 1 | | | | | | | | |
| 2. | 2 | 1 | 1 | | | | | | |
| 3. | | | | 1 | 1 | 1 | | | |
| 4. | 3 | 2 | 2 | | | | 1 | | |
| 5. | | | | 2 | 2 | 2 | | 1 | |
| 6. | 4 | 3 | 3 | | | | 2 | | |
| 7. | | | | 3 | 3 | 3 | | 2 | |
| 8. | 5 | 4 | 4 | | | | 3 | | |
| 9. | | | | 4 | 4 | 4 | | 3 | |
| 10. | | 5 | 5 | | | | 4 | | |
| 11. | 6 | | | 5 | 5 | 5 | | 4 | |
| 12. | | 6 | 6 | | | | 5 | | |

Lakari kýr en þetta eru sjaldgjæfar, og geta þá varla heldur heitið mjólkurkýr.

---

## Um einkenni á törfum.

Um speldin á törfunum er í öllu verulegu hið sama að segja, sem um speldin á kúnum. Genon getur þess, að eins í fám orðum, að tarfarnir hafi speldi eins og kýrnar, og að þau sjeu hjer um bil hálfu minni; enn á kúmum.

Ekki hefur Genon neitt talað um, hvað margar kýr eða tarfa, hann hefur fundið eptir tiltölu af hverjum flokki, en Andersen segir, að allur þorri kúnna í Danmörku sjeu af 1. flokki, eða 60—70 af hverjum 100. Apt-

ur segir hann, að varla nokkur tarfur sje þar nema af 3. flokki. Nú hefur Genon ráðið til að halda kúm, svo opt sem verða mætti undir tarf af sama flokki; en í Danmörku mundi það eptir þessu sjaldan vera mögulegt. Annað hvort hefir því staðið öðruvísi á þessu á Frakklandi, eða Genon hefur ekki athugað þetta vandlega, og væri því gaman að veita þessu nákvæma eptirtekt hjá oss.

Hvað stærð speldisins á törfunum viðvíkur, þá fullyrðir Andersen, að hann hafi vitað tarfa hafa svo stórt speldi eins og kýr af annari deild, hefir hann því ímyndað sjer þá reglu að telja þá til 1. deildar, og svo framvegis, einni deild ofar, en kýr með jafnstóru speldi; hefur því Genon, eptir þessu, gjört heldur mikin mismun á speldum kúnna og tarfanna.

---

## Um einkenni á kálfum.

Genon segir, að menn geti með einu sjeð einkenni hans á kálfum, sem orðnir eru 12—16 vikna.

Þetta er nú sjálfsagt öldungis rjett, að því er stærð speldisins viðvíkur, því það er sannreynt, að menn geta miklu fyrri, og jafnvel á nýbornum kálfi, dæmt um neðri hluta þess, sem líka er mest um vert. Andersen segist hafa skoðað speldið á mörgum kálfum, bæði öldungis nýbornum og tveggja eða þriggja

nátta gömlum, og fundið það ekkert breytzt síðan hvorki að stærð nje lögun neðri hlutans.

Það er annars sjálfsagt miklu örðugra að sjá á kálfunum, hvort hárið liggur upp á við, eða niður á við, heldur enn á skepnunni þegar hún er orðin þroskuð, og í góðum holdum, hljóta menn þar, ef þeir eru í efa um þetta, að strjúka hárið upp og ofan með hendinni, til að finna hvort það heldur vill liggja, og er þetta ekki vandasamt, þegar búið er að temja sjer það. Undir eins eptir burðinn, eða þegar kálfurinn er orðinn þurr, er bezt að athuga speldið; en eptir 3—4 daga verður það örðugra, því þá verður hárið venjulega úfið á kálfinum og leggst ekki aptur að skinninu fyrri enn hann er nokkurra vikna gamall. Reyndar er örðugt að sjá efri hluta speldisins svo snemma, og af hvaða flokki kálfurinn sje, en það er heldur ekki mjög áríðandi, þegar menn að eins geta hjer um bil sjeð hvað stórt speldið muni verða. Um mýktina á speldinu er ekki hægt að dæma fyrri en kálfurinn er orðinn svo sem ársgamall.

Það er ekki lítill kostur á einkennum Genons, að hægt er að sjá þau svo snemma á kálfunum, því þess vegna geta menn komizt hjá þeim kostnaði, að ala upp kvígur, sem ekki er auðið að geti orðið góðar mjólkurkýr, sömuleiðis geta menn valið tarfkálfa, sem bera með sjer, að þeir sjeu af mjólkurkúa kyni, og hljóti að verða góðir til undaneldis. Það er heldur ekki lítið undir því komið, að kynferði

tarfanna sje sem bezt, og menn hafa óræk dæmi fyrir sjer á öðrum skepnum, einkum sauðfjenu, hvað mikið má gjöra til að bæta kynið, þegar menn velja hyggilega þær skepnur til undaneldis, er hafa flesta af þeim kostum til að bera, sem menn helzt girnast. Þetta er reyndar þar hægra um nautgripi hjá oss, sem varla er litið á annað en e i n n k o s t, þ. e. mjólkur vöxtinn.

Ekki hefur Genon beinlínis talað um það, hvort speldið á kálfunum líkist optar speldinu á föður þeirra eða móður, en rjeði einungis til, að halda hverri kú undir tarf af sama flokki, sem hún er sjálf, því áleit hann að speldin á kálfunum, mundu verða óreglulega löguð. Þetta mundi nú, eptir því, sem áður er sagt, ekki vera vinnandi vegur í Danmörku, þar sem því nær allir tarfar eru af 3. flokki, en flestar kýrnar af 1. flokki, og þó segist Andersen ekki hafa sjeð myndir speldanna verða neitt óreglulegar fyrir þetta. Það ræður og að líkindum, að sjaldnar hafi hitzt svo á, áður enn menn komust upp á að þekkja speldin, að kýr fengi við tarfi af sama flokki, og mætti eptir því ætla, að speldin hefði enga reglulega mynd framar, en þó er þetta gagnstætt reynslunni. Andersen þykist annars hafa nokkra reynslu fyrir sjer í því að kvígukálfar hafi optast e i n s l a g a ð s p e l d i og móður þeirra, eða verði í sama flokki, en að s t æ r ð i n á s p e l d i n u líkist aptur venjulega meir því sem er á föðurnum. Nú með því öllu

meira er komið undir stærð en lögun speldisins, þá verður eptir þessu mesta nauðsyn á því, að velja tarfa með stóru speldi til undaneldis; en vissast er þó að kynið sje sem bezt vandað í báðar ættir.

---

## Um helztu kosti á einkennum Genons.

Menn hafa reyndar áður haft ýms einkenni á mjólkurkúm, en mikið vantar til að þau sjeu eins nákvæm og einkenni Genons, enda geta þau jafnvel brugðizt með öllu, þar sem Genons mega heita öldungis óbrigðul; skal hjer að eins drepa á helztu aðalkosti þeirra, og eru þeir þessir:

1. Að eptir þeim má sjá með vissu hvort tarfar eru af góðu mjólkurkúa-kyni eða ekki.
2. Að þau sjáist svo snemma á kálfunum.
3. Að eptir þeim má að greina n á k v æ m l e g a gæða mismun kúa, eða tilgreina með tölum, hve miklu ein kýr er betri enn önnur.
4. Að menn þurfa einungis að vita af hvaða flokki og deild einhver kýr er, hvað stór, og hvert hún hefur mjúkt speldi, eða með hárkömbum, til þess að fá fullkomlega rjetta lýsingu af henni, með tilliti til þess, hvað hún mjólkar mikið eptir burðinn og stendur lengi geld; er þetta ekki lítill hagur, einkanlega þegar menn þurfa að kaupa kýr langt að.

5. Að það er miklu auðveldara, að komast upp á að þekkja einkenni Genons, en öll önnur einkenni á mjólkurkúm.
6. Að menn eru margfalt fljótari að sjá hvernig kýrin er eptir þeim einkennum en öðrum, svo menn gæti á svipstundu þekkt allar hinar beztu frá, af hundrað kúm, sem væru í flokki saman.

---

## Aðalatriðin í kenningu Genons, dregin saman í stuttar reglur til hægðarauka.

Hjer að framan höfum vjer yfirfarið kenningu Genons, með allri sundurliðun hennar; en eptir er að reyna hvernig hafa megi not af henni, þegar áliggur, án þess maður muni alla hina margbrotnu skiptingu í flokka og deildir með myndum þeim, er þar til heyra. Þetta álítum vjer auðveldast með þeim hætti, að gefa fáeinar algildar reglur, er innibindi aðalatriði fræði þessarar, og svo greinilegar, að jafnvel þeir, sem lítið skynbragð bera á þetta mál, geti haft þeirra not og þekkt sundur góðar og ljelegar mjólkurkýr.

Gæði mjólkurkúa, eru eptir einkennum Genons komin undir þessu:

1. Stærð speldisins að flatarmáli þannig, að því stærra það er, þess betri er kýrin.

2. Lögun speldisins þannig, því meir sem það gengur út á lærin að neðanverðu, og

því lengra sem það gengur upp eptir þeim, þess betri er kýrin; því sú sem hefur speldið einungis á júgrinu og út frá því á lærunum, stendur skemur geld en önnur, er að vísu hefur jafnstórt speldi, en sem er mjótt að neðan og upp hátt.

3. Mýkt húðarinnar og háranna á speldinu, einkum á lærunum og júgrinu, því þetta er töluverður kostur, helzt ef speldið hefur um leið gulleitan lit, þar eð kýr með talsvert minna, en mjúku speldi, getur mjólkað eins mikið og önnur, sem hefur það stærra, en snarpt og þjetthært. Sje nú einnig ásamt hinu mjúka hári gulleit væring í speldinu, þá er það merki til þess að góð smjörmjólk sje í kúnni.

4. Sjeu ofan til í röndum speldisins annarsvegar eða beggja megin, eða þá laust fyrir ofan speldið, kárbambar, eða aflangir blettir með stinnu hári, sem hvorki liggur upp nje niður, heldur stendur rjett út, — þá er þetta merki til þess að kýrin er lakari, en speldið annars sýnir, og því fremur sem hárkambarnir ganga lengra ofan á lærin, hafa stinnara hár og lengra; því kýr með þessum einkennum stendur annaðhvort lengur geld, eða í henni er þunn og kostlítil mjólk.

5. Sjeu vik inn í speldið, eða blettir á því af hárum er liggja niður á við, þá verður að draga stærð þeirra frá stærð speldisins, og álíta kúna þeim mun lakari; en sjeu aptur, eins og opt vill til dílar utan við speldið af hár-

um sem liggja upp eptir, án þess hárkambar myndist við það, þá má álíta þá sem viðbót við speldið og kúna þeim mun betri, þá ræður að líkindum, eptir því, sem að framan hefur verið kennt, að fyrnefndir dílar hafi því meiri áhrif á gæði kýrinnar sem þeir eru neðar.

---

## Athugagreinir.

1. Eins og getið er um hjer að framan, áleit Genon að mjólkin í kúnum færi að nokkru leyti eptir því hve stórar þær væru, og hefur hann því talið þær í þrennu lagi eptir stærð, og getið þess að hann kallaði þá kú stóra, sem væri 50—60 fjórðungar að þyngd; í meðallægi þær, sem væru 30—40 fjórðungar, og litlar þær sem ekki væru nema 10—20 fjórðungar. Nú er harla örðugt að koma því við hjá oss, að vega kýr, og í annan stað er þetta, sem Genon hefur ákveðið, mjög ónákvæmt og af handahófi; það mun t. a. m. vera dæmalaust að nokkur kýr sje að eins 10 fjórðungar. Menn verða því að venja sig við að dæma um vöxt þeirra eptir áliti, og getur það orðið svo nákvæmt sem nægja má.

2. Genon hefur enn getið þess að kýr frá hinum norðlægari löndum, t. a. m. Englandi, Danmörk og Hollandi mjólki meira en aðrar frá Spáni og syðri hluta Frakklands, sem eru af sama flokki og sömu deild; eptir þessu er líklegt að kýr hjá oss, ætti að mjólka meira,

en hann hefur tilgreint við myndirnar, einkum þegar þær eru vel fóðraðar. — Því hefur hann og ráðlagt að mjólka allar kýr af hinum fyrstu deildum þrisvar á dag eptir burðinn, svo að þeim verði síður hætt við júgurbólgu. Og enn fremur hefur hann sagt að kýr þær, sem hefði hárkamba væru tíma samari enn aðrar.

---

Kostar í bandi 40 sk.